og eignaðar eru honum Skotlands rímur.[1] Má vera að fleira sé til eftir hann, en flest eða alt mun það enn vera óprentað.

---

Aðalheimildar rit við æfi-ágrip þetta eru: Presta tal og prófasta á Íslandi, eftir Séra Svein Nielsson, Kaupmannahöfn 1869. —Árbækr Íslands, VI deild, víða.—Presta-æfir Daða hins fróða Nielssonar.—Um presta í Barðastrandarsýslu, eftir Gísla Konráðsson.—Um Galdur og Galdramál á Íslandi, eftir cand. Ólaf Davíðsson; og enn fleiri rit.

25 *August*, 1902.

[1] Enn er honum eignað kvæði eitt: Angurból Íslendinga.—(O. D.)

I

## [FYRSTA RÍMA]

1

Eitt sinn las eg æfintýr
  út í löndum forðum;
meistarinn hafði dyggur og dýr
  diktað snildar orðum.

2

Skrifarinn mætur *Skotlands* getur,
  og skjöldungs þess hins ríka;
bræður tveir, sem birtir letur,
  buðlung hugðu að svíkja.

3

Ekki tókst þeim illsku verk,
  undan urðu að svífa,
því dýrðar höndin dróttins merk
  dögling gjörði að hlífa.

4

Veraldar flærð og falska trú
  fá þeir lýðum kenda,
hinum sem vilja í heimi nú
  huganum þartil venda.

5

Hjer má lyginn lymsku-Þór
  líta slíkan voða,
í eptirdæmi auðnu-mjór
  allan sig nú skoða.

6

Fangar jafnan fljóta skamm
falsara lundin ljóta;
æsist þó með æði framm,
ætlar sigur að hljóta.

7

Illa byrjað efnið manns
illan hlýtur enda;
ill fær launin ódygð hans;
illt mun hjá honum lenda.

8

Keisari einn var kendur í Róm
Kristni hjelt í banni;
Guðs son hugði hið gamla gróm
gjöra að lygi-manni.

9

Jórsala hugði að byggja borg,
er bölvaði himna herra;
ferska smíði fjell á torg;
fjekk hann því úr verra.

10

Segir loksins sú varð raun
(sögurnar þetta stíla),
að dögling fjekk þau dygða laun,
hann drap af lopti píla.

11

Neró jafnan nauðir jók
nýtum drottins sveinum;
vomurinn varð (sem vottar bók)
að villigelti einum.

24

Sú var bæði fögur og fróð
Friggjan ofnis palla;
*Danmerkur* kóngs dýrligt jóð
dreingir mega hana kalla.

25

Var sú kljenust kyrtla brík
kend að nafni *Anna*;
fyrr hefur eigi fundist slík
fylkirs æski-Nanna.

26

Tiguligt er tyggja blóm,
trausta menn kann sigra;
*Jakop* veitir jötna róm
í jeli vanur vigra.

27

Æfintýrið eitt af þeim
öðling vildi eg glósa;
niflungs tign og nógum seim
nenni eg lítt að hrósa.

28

Innt var mjer að öðling fór
eitthvört sinn um ríki;
milding fylgdi múgurinn stór
merktur linna síki.

29

*Fálka-land* hjet frónið smátt,
fylkir átti að stýra;
heldur þangað hilmir brátt
með herra-fólkið dýra.

30

Vanur var þessi vísir þar
að veiða dýr á skógi;
ljeku sjer með lista par
lofðungs menn að plógi.

31

Einhvörn dag að öðling reið
út á skóginn *víða, *p. 212.
seggir litu seima meið
sveittum hesti ríða.

32

Stje af baki stýfir spjóts,
og stefnir mitt á dreingi;
heilsaði eyði orma grjóts
og öllu kóngsins meingi.

33

Komu-maðr fyr kónginn stje,
og kvaddi rekka snjalla;
buðlungs menn á bæði hnje
bófann sáu þar falla.

34

Heilsar hann upp á hilmir fyrst,
í huganum þeinkir verra;
'Blíðan vil eg þess biðja Krist
að blessa yður, minn herra.'

35

*Alexand* hjet sá örva grjer,
ítran kvaddi stilli,
greifans bróðir af *Góiver*,
gott var þeirra í milli.

36

*Jóhannis-staður* hjet borgin breið,
bræður, trú eg, að stýri;
hjelt þar hof með hjörfa meið
herra greifinn dýri.

37

Riddari þessi að ræsi víkur,
rjeð svo málið sveigja:
'Tállaus hef eg, tyggi ríkur,
tíðindi yður að segja.

38

'Í gærkveldi geysi-glaður
eg gekk um foldar reiti;
varð á fyrir vegi maður,
veit eg ei hans heiti.

39

'Lítils máttar leizt mjer hann,
lötraði einn um heiði;
ásjón hafði og heila rann
hulið skálkurinn leiði.

40

'Gekk eg framan að garpnum, því
gjörði nafns að frjetta;
öngu vildi hið arma þý
ansa mjer af ljetta.

41

'Kápu einni klæddur var
kauðinn lymsku-fulli;
hjá fóla leiðum fann eg þar
fullan pott af gulli.

42

'Gjörla leit eg grettis land,
greip eg síðan dólann;
mælti eigi á móti grand,
má því hitta fólann.

43

'Tók eg gull og garpinn með,
gaman er slíkt að róma;
bófann þann sem brögð voru ljeð
batt eg saman í dróma.

44

'Falda eg inn í fólgnum rann,
um fólann öngvir hirtu;
lítur þar einginn lifandi mann
ljós eða nokkura birtu.

45

'Veit það einginn í veröldu lýður,'
kvað veitir orma sessu,
'því er eg kominn, buðlung blíður,
að birta yður af þessu.

46

'Hvorki bróðir né bragna neinn
báru veit af ljóma,
utan þú, dögling dýr og hreinn,
dáðum prýddur og sóma.'

47

Talaði þanninn tjörgu rjóður,
tamur við vopna göllu:
'vilda eg gjarnan, vísir góður,
vera yður trúr í öllu.

48
'Fór eg strax að finna þig,
fylkir grænra ríta;
Sikling, muntu sæma mig,
og sjálfur gullið líta.

49
'Fáir þú þennan finna mann,
frægð má slíkri *hrósa; *p. 213.
öðling, máttu auðinn þann
allan til þín kjósa.

50
'Ef hilmir eigi hittir Þór,
Hagbarðs hest mun hljóta;
borgar menn og bróðir vór
brenda gullsins njóta.'

51
Falsarinn mælti, og sór við sál,
svo fyrir ríkum tyggja,
gullið rautt og græðis bál
gæfist honum að þiggja.

52
Þeingill ansar þegar í stað
þessum örfa stefni:
'Oss heyrir ekki,' að hilmir kvað,
'höndla um þvílíkt efni.

53
'Nema það væri numið úr jörð
nadda Týrs af fundi,
landsins dæma oss lögin hörð
en launin auðar lundi.'

54

Ansaði ríkum örfa Njörð
  Alexand fullur rausi,
'Gullið hugði að grafa í jörð
  garpurinn ærulausi.

55

"Mjer var í sinni," sagði hann,
  "sjóði gulls að leyna."
Framar eg eigi frjetta þann
  falskan stýrir meina.'

56

'Munur er það,' kvað meiðir stáls,
  'megum vjer þetta skilja,
að fremja einn hlut til fulls eða hálfs,
  eða fýsast eins að vilja.

57

'Minni synd er vilji enn verk,
  ef voðann hyggst að starfa.'
Helst mun þessi huggun merk
  höldum koma til þarfa.

58

'Tregur ertu,' kvað tjörgu meiður,
  'að trúa orðum mínum;
vex ei við það vísirs heiður
  hjá vildar-mönnum þínum.

59

'Ærið hugsar öðling knár
  um efnið slíkra greina;
volkar sjer að vitja fjár
  og vinna gullið hreina.

60

'Finnir þú eigi Fálu nið,
og fangir auðinn ljósa,
bróðir vor og bragna lið
brátt munu gulli hrósa.

61

'Reikningskap mun ræsir fá
raun-illan af feingi,
en efni nóg, sem inna má,
eptir að grenslast leingi.'

62

Undrast þvílíkt orða spjall
öðling firtur grandi;
minntist fyrr þá fór um hjarl
fölsuð mynt í landi.

63

Minntist gramur á morð og grand
er mönnum varð að tjóni,
þá framanda myntin fór um land
fyrr á skotsku fróni.

64

Spurði mætur meiðir gulls
að mynt og orma ströndum.
'Vita munu þjer víst til fulls,
að var hún af öðrum löndum.

65

'Kenna muntu kompán þann
með kljenan draupnis sveita;
pápisk þjóðin pretti kann,
plaga þeir svik að veita.'

66

'Satt skal inna, sjóli, þjer,
svo að þig eigi blekki;
Skottum líkur skildist mjer;
skynja eg gullið ekki.

67

'Að máli og burðum maðurinn er
sem mundi hann vera á hjarli
alinn upp *við orma sker *p. 214.
auðs hjá ríkum jarli.

68

'Linna bólsins ljósa mynd
leit eg aldri slíka;
ókend er sú orma lind;
ei sá eg hennar líka.

69

'Man ei heldur munda eg sjá
mann þann nokkurn tíma.'
Fylkir jók það firna þrá;
á flæðar þeinkti bríma.

70

'Minn er grunur að muni þeim auð
munkur eiga að stýra,
sendur út með svikum og nauð
seggi að blekkja dýra.

71

'Því vil eg senda svein með þjer,
sama gullið líta;
bróður þínum boð frá mjer
bera skal eyðir ríta.

72

'Greifinn vil eg að grábaks storð
geymi oss til handa,
þar til koma þeingils orð
þennan leysa vanda.

73

'Eigi skal greifinn girnast hel
garpi þeim að magna;
gæti hans heldur, og geymi vel.'
Gramur rjeð síðan þagna.

74

Alexand var við illsku kendur,
öðling hyggst að pretta;
svikarinn varð af sorgum brendur,
sór og mælti þetta:

75

'Sikling, hef eg sýnda þjer
sanna dygð og skæra,
viljað betur, vísi, en mjer
eða vorum bróður kæra.

76

'Eptir skyldu orð og eið
okkur að sæma báða,
fór eg snemma fram á leið,
fúss til yðar náða.

77

'Vilji dögling gegn og gæfur
gjöra að orðum mínum,
þá bið eg að fylkir frægur
fylgi þjenara sínum.

78

'Farir þú ei með fleina Ull,
framur í rógi ríta,
aldri muntu ágætt gull
augum þínum líta.

79

'Ríðum báðir rekkum frá;
raun má kalla ljósa;
veit mjer sjálfur virðing þá;
vil eg ei aðra kjósa.

80

'Ef þú, lofðung, lítur sjálfur
leirinn Fofnis gilja,
þá má skerlaugs skreyti-álfur
skipa að sínum vilja.'

81

Sjóli undrast svikarans orð;
sá var flár í hjarta;
riddara sveitin reið um storð
að reyna stálið bjarta.

82

Bragnar undrast buðlungs tal,
búnir þegar til veiða;
öðling ríður, en endast hjal,
út á skóginn breiða.

83

Fjekk ei annað svikarinn svar
af siklings dýrum rómi;
hann kvaðst vilja í hægðum þar
hugsa í góðu tómi.

84
Dýrin urðu að láta líf,
lágu dauð í blóði;
fylkir horfði á fleina dríf;
falsarinn æstist *móði. *p. 215.

85
Alexand aptur að vísa veik,
vjela fullur og sagna:
'Ekki skyldi lofðung leik
langan hirða að magna.

86
'Klerkar eru í kirkju nú,
og kappa sveitin búna;
færið aldri fá munt þú
fegra, heldur en núna.

87
'Ríðum strax,' kvað randa álfur,
rekkar munu hlýða,
'þá má lofðung líta sjálfur
linna bólið fríða.

88
'Eiginliga mig uggir það,
ef við skulum bíða,
bandinginn mun bera sig að
brjóta upp rannið fríða.

89
'Sitji eg ei hjá seima grjer,
þá svinnir kappar snæða,
greifinn mun þá gremjast mjer
og grunsemd af því fæða.

90

'Undrast líka ella um mig,
ef eg er úti leingi;
tyggi, vil eg ei tæla þig;
tjást mun slíkt fyrir meingi.

91

'Farir þú ekki, fylkir, strax
feinginn þjer að nýta,
þá mun sendir sára lax
hann síðan aldri líta.'

92

Gramur ekki gaf honum ans;
gjarða fílnum rendi
fram á skóg með firða krans.
Frosta skeiðin lendi.

## II

## ÖNNUR SKOTSK

1

Efna verð eg annan brag fyrir unga dreingi;
bermið fornt af Boðnar feingi
býð eg ekki dýru meingi.

2

Æskufólk skal ágæt dæmin ávalt hirða,
ekki hugsa um orðgnótt stirða,
efnið kvæða heldur virða.

3

Frá ungdóm skaltu óttast Guð og elska fræði,
föður, móður, og frændur bæði;
frægur er sá er þrifnað næði.

4
Uppi vertu árla dags um alla morgna;
viljir þú við volæð sporna,
varast skaltu leti norna.

5
Gjörða-lausar ganga þær og glotta tönnum,
með spáfarir spirta hrönnum,
spjá svo fje af æskumönnum.

6
Ljáist færi lærdóms þjer og lista næmi,
ungum segi eg ýtum sæmi
elska mennt og góðlig dæmi.

7
Iðju láttu þóknast þjer og þjónkan handa;
í kalli þínu keppstu að standa,
kemur þú síðan í nokkurn vanda.

8
Láttu heiður líka þjer þann lukkan veitir;
andlig stjett um allar sveitir
ekki girnist halda á hneitir.

9
Kóngs vald ekki keppist inn í klerka vanda;
sómir ekki sverð og randa
sacramentum við að *blanda. *p. 216.

10
Saul og Usias sjóla báða sæmdir fýstu;
straffan drottins stirða gistu,
stað og ríki um síðir mistu.

11
Af því firðar fóru að offra fórnum hreinum;
prúðum bar það prestum einum,
prýði-fullum drottins sveinum.

12

Einginn falli í annars stjett; það eykur vanda:
sjerhvorn láti í sínu standa
sæmdar starfi munns og handa.

13

Öngvum skaltu óska falls frá æru sinni;
veikur þó einn verða kynni,
vor er heiður ekki að minni.

14

Athanasium Arius vildi af æru setja;
skækju gjörðu skatnar hvetja;
skyldi hún lygð á biskup etja.

15

Ljet hún sem hann líkamans hefði losta framið,
sjer með hold í syndum lamið,
saurugar illa girndir tamið.

16

Fyrir dómi stóð þar drillan leið og dreingir fleiri,
biskup gagnvart bauga eyri;
birtast munu hjer slægðir meiri.

17

Annar spurði afreksmaður efldur frygðar:
'Segir þú hafi eg syndir skygðar,
seima grundin, með þjer drýgðar?'

18

Biskup stóð sá bragning næst til brúðar mælti;
hennar svaraði hugurinn stælti:
'holdið þitt mig illa vælti.

19

'Þú hinn sami það hefur verk með þilju unnið,
vondum þínum vjelum spunnið:
virðar, dóm álykta kunnið.'

20

Biskup hugði brúðurin þann er býttí orðum;
strillan þessi stælt upp forðum
stóð þar fyrir herra borðum.

21

Fundin varð að falsi og lygð sú falda Gerða;
Athanasi æru að skerða
ekki mátti þanninn verða.

22

Falsara dæmin finnast slík hjá firðum víða;
einn vill keppast annan níða,
ekki spara lygar að smíða.

23

Ærulausa egna þeir til ilsku verka;
lygina magna ljóta og sterka,
látast sig þó halda merka.

24

Achitofels ilsku ráð ei altíð duga;
drottinn með sinn dýran huga
dárans slægð kann yfirbuga.

25

Illa lyktar öfundar manna áform stundum;
gengur þeim sem grimmum hundum;
geldst þeim aptur fullum pundum.

26

Ilsku manna undirgröftur óskröp styður;
ferr svo *jafnan fleina viður, *p. 217.
fellur sá til skammar niður.

27

Sannar þetta sögunnar mál og seggja dæmi;
efna verður annað næmi,
ef eg því í gott lag kæmi.

28

Bragurinn fjell, en byrlast annað Boðnar minni,
kaldhamraður Kjalars við inni
kvæða slagur í öðru sinni.

---

29

Skildust áðr skatnar við, þar skjöldung fróður
veik á skóginn, vitur og góður;
vomurinn hinn stóð eptir hljóður.

30

Alexand fylgðu firðar tveir og fúsir að pretta;
hugsar ekki hilmir þetta;
hafa þá bræður til njósnar setta.

31

Sendi annan svein á burt, er segja skyldi
sínum bróður, að sikling vildi
sjálfur koma að liðinni hildi.

32

Veizlu bað hann vanda þá sem virðum semur:
'eyktir þrjár, en ekki fremur,
eru til þess að vísir kemur.'

33

*Andrjes* hjet sá ilsku þjón er orð nam leyfa,
kæmeistari hjá klókum greifa,
kann sá nokkuð svikunum hreifa.

34

Gjarða fílnum garpurinn fram til greifans rendi;
bar þau orð er bróðir sendi
brigðu-fljótt af sinni hendi.

35

Víkjum aptur vísirs til á vænu láði;
  dögling ekki dýra gáði,
  dagur þó sína blíðu tjáði.

36

Tíðindin aldri tyggja geingu túns úr minni;
  orða smið í öðru sinni
  aptur kallar gramur hinn svinni.

37

'Fljótliga skal eg fylgja þjer nú fram til borgar,'
  fylkir mælti Fofnis torgar;
  falsarinn gleðst við efnið sorgar.

38

'Geingur aldri úr minni mjer sú mundar snæra;
  þjer skal veitast þessi æra;
  þúngt er eigi fót að hræra.'

39

Hátt nam blása hilmir þá í hornið renda;
  jaktina vill þá jöfurr enda,
  jafnsnart burt með Alexand venda.

40

Stundir fjórar stóð sú jakt að stillirs ráði;
  aldri á meðan annars gáði
  en ræða um það sem Alexand tjáði.

41

Sinti ekki sjóli par um seggja veiði;
  getið er hins að grábaks heiði
  geingur aldri úr sinnu leiði.

42

Flýta vill nú ferðum sínum flokka prýðir;
  söðla dýr býður sæki lýðir;
  siklings boði að fólkið *hlýðir. *p. 218.

43

Furðu var sá fákurinn móður er fyrr nam ríða;
  vomnum þótti verst að bíða;
  vísir biður hann sjer að hlýða.

44

'Sami nægir söðla beri svinnum tyggja,'
  gaurs var ekki grunlaus hyggja,
  'gatan er sljett þar leiðir liggja.'

45

Fáknum aptur fór á bak sá fleygir gerða;
  undan tók með Alexand herða;
  allir sveinar eptir verða.

46

Hafði hvorki hilmir vopn nje Handings klæði;
  blakkurinn rann með býsn og æði;
  brjóstið kendi þungrar mæði.

47

Þegar að sáu þegnar nú til þeingils ferða,
  dreingir eptir dögling herða;
  dygðin mun þeim launuð verða.

48

Óskipaðir allir þessir ýtar fóru;
  herrar tveir með hilmir vóru,
  harla dýran trúnað sóru.

49

Greifi af *Maÿr*, góði herra, gram nam fylgja;
flýði aldri fæðir ylgja,
fleina þar sem vektist bylgja.

50

Þegnar sextán þeysa á stað og þeygi fresta;
ólúna höfðu allir hesta;
ekki mun þá kappið bresta.

51

Náðu þessir niflung brátt og nadda brjóti;
í sinni hugsar svikarinn ljóti
sízt mun gagn að þeirra hóti.

52

Raumurinn pretta ræsir bað, hinn ráða væli,
ferð um snúa fljótt á hæli:
'fæstir vilda eg okkur tæli.

53

'Áform hindrast ella mitt og okkart beggja;
þeir mega aptur leiðir leggja;
lyndið reynist misjafnt seggja.

54

'Herra greifinn hygg eg bezt, og hertuginn báðir,
vendi aptur víst um láðir;
vitnast síður okkar dáðir.'

55

Svaraði honum sikling aptur svo með reiði:
'einginn er mjer á þeim leiði;
ágætlegur er þeirra greiði.

56

'Enn munn eg trúa ýtum þeim til æðri mála;
ætla eg ekki í orðum hála
ágætustu meiði stála.

57

'Svo hef eg ekki seggja minna svikráð fundið;
traustar höfum vjer trygðir bundið,
táli og prettum öllum hrundið.'

58

Grunsemd tók sjer gramur litla garps af orðum;
túngan marga tældi forðum;
tjást mun slíkt í ljóða skorðum.

59

Milding kom þá mart í hug um meiði gerða;
ríkur hugsar rjóður sverða
rauna svik munu eingin verða.

60

Af því lofðungs lund var hrein við lestir fleina,
sökina hafði ei sikling neina;
*sitt hvort munu þar báðir meina. *p. 219.

61

Hugsar með sjer hilmir dýr í huganum bráður,
að boðist hafði bófinn smáður
báðum þjóna hjónum áður.

62

Svik mundi eingin seggurinn því að sinni brugga
leyniliga í ljóða skugga;
lýðir þurfa ei slíkt að ugga.

63

Hugsar gramur hitt megi ske sem hendir marga;
melancholia, meinið arga,
manna gjöri opt vizku að farga.

64

Greifinn kanske gramur sje mjög við geira lesti,
þróast af því þunginn mesti;
það má valda sinnu bresti.

65

Fylgdi kóngi frægur þegn af ferða ranni;
hertugann spurði hýr með sanni
helst að þessum unga manni.

66

Systur átti svikarans versta svinnur herra;
hans mun aldri heiðurinn þverra;
hinn nam brugga ráðið verra.

67

Alt hvað tyggja tjáði hinn með tungu afli,
hermdi gramur af handar skafli;
hertuga þótti brögð í tafli.

68

'Grein mjer það,' kvað gramur dýr, 'með góðum sanni,
ef fíflska hefur á frægum manni
fundist áður í ljóða ranni.'

69

Svaraði ríkum sjóla hann, og svo rjeð greina:
'Vissa eg hans ei veikju neina;
var honum ungum fátt til meina.'

70

Skjöldung bauð að skildi ei við sig skýfir ríta
'Auglits skulu við aurinn líta,
aldri okkar samvist slíta.'

71

Heimugliga gaf halurinn akt hvað hilmir sagði;
dreingur ríður dapur og þagði,
dröslulinn keyrði þegar að bragði.

72

Veik að stilli vanur til pretta vella lundur;
höfuðið hneigði Herjans kundur;
höldum þótti kýmin undur.

73

Lítillátliga lofðung bað hinn lasta fljóti:
'Segðu öngvum seima brjóti
svinnum neitt af okkar hóti.

74

'Af grettis vallar glæstri lá með greindum sanni,
tjáðu öngvum tignum manni,
tyggi, bið eg þig áður kanni.

75

'Einn vil eg gangi öðling inn á ýta náðir,
að líta bjartar linna sáðir;
líkar mjer það við sjeum báðir.'

76

Blíður mælti buðlung þá, og brosti viður:
'Illa reikna eg orma fiður,
ef einginn dreingja þartil styður.

77

'Því er oss þörf á þegni þeim er það kann vinna;
ómak verður mjer að minna.'
Mælti hinn, og svo rjeð inna:

78

'Einn skal *lofðung líta fyrst þá linna heiði; *p. 220.
ágæt síðan öldin leiði
augum dýr með hringa meiði.'

79

Undrast gramur orðin slík er út hann leysti;
rekkurinn á sín ráðin treysti;
ríkir í hjarta flærðar neisti.

80

Sjóli grunar sannliga mart um svikin barma:
'Oss mun ætla auka harma
Alexand nú með lymsku arma.'

81

Þann sinn grun vill þeingill ei fyrir þegnum glósa;
sannlega má hann sæmdum hrósa,
sá berr dygð og æru ljósa.

82

Nú sem fylkir nálgast borg, þá niflung ræður,
orð frá eg sendi sínum bræður
svikarinn lymskur, lýðum skæður.

83

*Andrjes Rutinn* eyðir nefndist auglits torgar;
flytti þessi frjettum sorgar;
frægan hitti stýrir borgar.

84

Sagði hann alt af sjóla för, og síðan þagði;
greifinn býr sig gildur að bragði
glaður, en ekki til þess lagði.

85

Þá míla átti milding enn að múrnum kalda,
undan tók með ákefð halda
Alexand heim til skýfis skjalda.

86

Sínum bróður siklings komu segja vildi;
barmar hittust bræddir skildi;
að borðum sat þá greifinn gildi.

87

Óvart ljet sem öðling kæmi að ýta ranni;
þó hafði áður þegn með sanni
þetta spurt með sendimanni.

88

Fljótlega gekk frá borðum burt sá beitir vagna
kóngi ljezt með kærleik fagna;
kallar hann til sín fjölda bragna.

89

Ríður út með rekka lið um ríkar hallir;
Derlings voðum dreingir snjallir
dubbaðir voru hlífum allir.

90

Áttatigi greifinn gildur garpa hafði;
eyðir sætta ekki tafði,
unst hann hitti kóng að bragði.

91

Kónginn heilsar kurteis þegn að kærum vanda:
'vel kominn,' segir hann, 'vísir landa';
virðar allir í kringum standa.

92

Grams var heldur flokkurinn fár hjá firða meingi;
sextán hafði sjóli dreingi
sjena lítt með unda þveingi.

93

Gjarða fílar greiða ferð að greifans höllu;
lofðung þar með liðinu öllu
leiðist inn hjá meingi snjöllu.

---

94

Saurugt vill hjer saupið þrotna Suptungs fljóta;
bermið tekur brátt að þrjóta;
bragurinn mun hjer standa hljóta.

## III

## [ÞRIÐJA RÍMA]

1

Mansöngs spil þó menja Bil
mætti vilja þiggja,
þá er þurt sú bermin burt
er bar eg frá Ása tyggja.

2

*Litla lukt af ljóða frukt *p. 221.
ljet mig eitt sinn smakka;
örleik hans, þess auma manns,
öngvan hef eg að þakka.

3

Hæli þeir sem höppin meir
höfðu úr Ása höllum;
vináttu brögð eru virðum lögð,
en veitast ekki öllum.

4

Herra gunst er herlig kunst;
hana eg sjaldan kendi;
þá snerkja roð með snúðug boð,
sneypa er vís í hendi.

5

Trautt fær þann, er trúskap kann
tjá með sæmd og snilli,
þó leitir þú með listum nú
landshornanna á milli.

6

Vináttu má hjá virðum fá,
veitist Fofnis bingur;
flugan svöng, ef fær ei föng,
frábærligana stingur.

7

Tantalus var talinn þuss,
tönnla mátti og drekka;
þó bar angur soltinn, svangur,
sultar grön óþekka.

8

Ágjarn ríkur er honum líkur;
öngvar hefur hann náðir;
æ vill meiri aumur leir
auð og linna sáðir.

9

Öngvan má sér ágjarn hjá
annan vita hljóta
aura nægð, eða aðra frægð;
einn vill alls þess njóta.

10

Samt er tómur sultar grómur;
sárt sker hjarta rætur
annars lán, en öfund og rán
eykst um daga og nætur.

11

Í orði gildur, margur mildur
mjög læzt vera um stundir;
það eyrna hjúk og banvænt brúk
bregðst, því slægð er undir.

12

Hrósi fátt ein hringa gátt
hönd, þó mildin prýði;
hirði ei lof, nje heiðurs hof,
hafa af veraldar lýði.

13

Hefur í raun sín lítil laun
lofgjarn út hjer tekið,
fær hann smán, og fjárins rán,
frægð á burtu rekið.

14

Launar þjer, sá í leyni sjer,
líkn og annan sóma;
eykur brauð en eyðir nauð
ástin drottins fróma.

15
Í rjetta tíð mun lykjast lýð
laun af verkum öllum,
þá herrans blóm vill halda dóm
með höldum veraldar snjöllum.

16
Lát þú mig fá með lukku að sjá,
lausnarinn, þína prýði,
þó verkin mín sjeu varla fín
og vönduð miður en hlýði.

17
Mjer er ei ljent sú mansöngs ment
að mæla um sprundið ljósa,
þriðja hátt fyrir þorna gátt
þó mun eg verða að glósa.

---

18
Þar fjell bragur þeygi fagur,
þeingill gekk til hallar;
dögling vitur og drottinn situr
hjá dreifi nöðru vallar.

19
Heila stund beið lofðungs lund
og listugur hjörfa *meiðir, *p. 222.
áður en gildur greifinn mildur
gram til borða leiðir.

20
Sikling spyrr að svikarann fyrr.
sveigi gyltra ríta:
'Nú mun hent,' kvað niflungs ment,
'nöðru ból að líta.'

21

Svika vargur svaraði argur,
sögn ljet ekki þverra:
'Alt er kyrt í kofanum birt;
kátur vertu, herra.

22

'Læt eg þörf,' kvað lymskan djörf,
'Þjer leynið okkar ræðu;
vega móður, vísir góður
vil eg að njóti fæðu.

23

'Dögling skal í dýrum sal
drákons heiðar aldri
geta orð við greifans borð
fyrir gildum hjörfa Baldri.

24

'Fyrir ofan mold af frænings fold
firða trú eg eingi
viti meir nema við hjer tveir
hjá virða öllu meingi.

25

Eptir það sem Alexand bað
af öðlings dýru valdi,
gaur í vil sig greifans til
gramur trú eg síðan haldi.

26

Spurði gramur spektarsamur
spilli baugs að mörgu;
orða refur andsvör gefur
öll af lyndi örgu.

27

Fylkir sat, og fjekk sjer mat;
frægð trú eg ekki linni;
greifinn stóð með grimd og móð
grams fyrir borðum inni.

28

Lymsku drjúgur í lyndi bjúgur
lýðum greifinn þótti;
hneigði niður höfuðið viður;
hjartað pínir ótti.

29

Að fylkirs náð með fremd og dáð
falsarinn gætir ekki;
sá nam heldur er svikunum veldur
sinna um aðra hvekki.

30

Kóngsins menn með kærleik enn
kvintir að borðum þjena;
á tign og ment eg tel þeim hent;
trautt fær slíka sjena.

31

Öðlings ment fær máltíð ent,
mun sá heiður hljóta;
í öðrum sal skal ýta val
öls og matar njóta.

32

Gramson merkur, gildur og sterkur,
greifann undrast náði;
einka hljóður, ærið rjóður,
ávarps einskis gáði.

33
Þeingill biður, sem þrátt er siður,
  þegar að máltíð enti;
síðan aumur svika raumur
  sjóla frá eg að benti.

34
Alexand þá, sem innt er frá,
  við öðling talar hinn blíða:
'Get eg sje tíð að gargans hlíð
  garpur líti fríða.

35
'Þyki mjer ráð að þess sje gáð,
  þeingill í burtu stefni
greifa fyrst, svo geti hann sízt
  grunað um þetta efni.

36
'Við skulum tveir, meðan virðar þeir
  velja um drykk og fæðu,
líta þann hinn lymsku-mann,
  og ljetta *síðan mæðu. *p. 223.

37
Gjörði það sem garpurinn bað
  gramur, og heimti síðan
góða skál með grettis bál,
  við greifann talaði fríðan.

38
'Þjer hafið sízt, og það er víst
  þegnum vel komandi,
drukkið til með dáða skil,
  hvað dreingja er þó vandi.

39
'Mun eg því nú á mína trú
máli þanninn venda,
yður fyrst með æru og list
ágætt minnið senda.

40
'Síðan ber,' að bragning tjer,
'býtið gestum öllum
Rínar glóð, og rósar flóð
rekkum skeinkið snjöllum.'

41
Hinn tók viður, en herrann biður
hann skuli minnið drekka:
'Geira álfur gleði sjálfur
göfuga vora rekka.'

42
Halur gekk út með horna lút,
er herrann drakk til sveinum,
fjekk í hönd með fræðin vönd
fylkirs manni einum.

43
Alexand var hjá öðling þar;
ósköp að honum kalla:
'Fylkir, þjer skuluð fylgja mjer
að finna rekkinn snjalla.'

44
Siklings niður svikarann biður
sinn mann einn að kalla,
taman þann er telja kann
tárin Fýris vallar.

45

'Förum tveir, en firðar þeir
  fæðu veri að sinni;
fylkir þarfur fylgi djarfur
  og forsjó treysti minni.'

46

Fór á stað sem fólinn bað;
  frek jókst sorgar kvíðan;
ráða lætur ræsir mætur
  rekk, og geingur síðan.

47

Fylkir geingur, og flærðar dreingur,
  fjórar stofur í gegnum;
læsti dyr, sá leyndi styr
  og lista geð sitt þegnum.

48

Lymsku fús í lítið hús
  með lofðung halurinn vendi;
þar stóð maður þeygi glaður
  með þungan vigur í hendi.

49

Dygðin brast, en dreingurinn fast
  dyrnar aptur lukti;
tjörgu meiður trítilreiður
  týnt hefur öllu bukti.

50

Skemdar leiður skalkurinn reiður
  skjómann þreif hinn bjarta;
stakk fyrir brjóst með þungan þjóst
  þeingil mitt á hjarta.

51

'Eg hefi hald og vegligt vald
á vísirs lífi snjöllu,
þinn skal leiður þeingils heiður
þrotinn vera með öllu.

52

'Glerin björt á glugga hjört
girnstu ei upp að láta,
nje vondslig köll um vigra göll;
varast skaltu að gráta.

53

'Ef bregður þú, sem að býð eg nú,
burt af ráðum mínum,
þá skal líf við laufa kíf
leita að enda sínum.

54

'Ferr það vel þó fáir þú hel
*af fetla vendi bjúga; *p. 224
brandur minn skal búkinn þinn
og brjóst í gegnum smjúga.

55

'Manstu ei, hið mesta grey,
þú mýðir föður mínum;
feigðar blak við fleina skak
hann fjekk af ráðum þínum.

56

'Föðurs míns deyð og forna neyð
frekt gjöri eg að sorga;
þú skalt móð og þegnsins blóð
með þínu lífi borga.'

57

Sikling hljóður sýndist rjóður;
  sá kann hlífar sundra;
þvílík orð og þrauta morð
  þeingill tekur að undra.

58

Hreytir stáls bar horn við háls,
  Handings firtur vóðum,
varnar laus, sem vomurinn kaus,
  hjá virðum þeygi góðum.

59

Kristur þá svo kær til sá,
  um kónginn lætur hirða;
dignar brjóst í dreingnum ljóst,
  sem dögling átti að myrða.

60

Brugðust heit þá buðlung leit;
  bragning stóð og þagði;
skalf sem lauf sú skræfan dauf,
  og skjómann frá sjer lagði.

61

Þá hilmir sjer hvör hættan er,
  og horfir á víga manninn;
við Alexand þá, sem inni eg frá,
  orðum hagaði þanninn.

62

'Þeink í hljóði, þeingils blóði,
  Þundur greipar svella,
synd er stór fyrir sverða Þór
  saklausu út að hella.

63

'Hefnd mun sterk,' kvað hetjan merk,
  'harðliga goldin verða;
þeingils múgur er þeygi bljúgur;
  þann kann brynjur skerða.

64

'Þó hvorki frændur, fólk nje bændur,
  freisti hefnd að efna,
grjót og rætur græðarinn mætur
  grimmliga lætur hefna.

65

'Vit til fulls,' kvað veitir gulls,
  'vor þó endist gipta,
döglings fljóð og dýrlig jóð
  dreing mun lífi svipta.

66

'Föður þíns lát við feigðar grát
  fær mjer öngvan kvíða;
borgi þeir sem beittu geir,
  og bana ljetu hann líða.

67

'Hans bið eg fall við fleina svall
  frelsarinn dæmi hinn snjalli;
full var sök, þó feigðar vök
  feldi hann burt af hjarli.

68

'Mín var sljó og maktin mjó,
  þá milding hjóst með geiri;
eg var einn og ungur sveinn,
  angraður svo sem fleiri.

69

'Höfðu ráð um hauður og láð
herrar lands með fljóði;
eg er nú því með öllu frí
auðar lunds af blóði.

70

'Þeirra ráð við Þundar gráð
þegninn lífi sviptu;
sá hlaut nauð, en svinnir auð
sín á millum skiptu.

71

'Þá eg fjekk hald og vísirs vald
vegligt hjer í landi,
ættfólk þitt og annað *hitt *p. 225.
alt var leyst frá vandi.

72

'Veitta eg þjer, þu veizt það hjer,
var það ekki minna,
alla sæmd, og aptur dæmd
óðul feðra þinna.

73

'Þú veizt gjör,' kvað þeingils bör,
'þó mjer sjert orðinn skæður,
eg firti nauð, en fylti auð
fróma þína bræður.

74

'Alla dygð en öngva stygð
eg hefi yður sýnda,
ráðið bætur, reist á fætur
rekka svo sem týnda.

75

'Gótsið aptur, geira raptur,
gaf (og þótti raun að)
þinni ætt, en það mun rætt
þú hafir illa launað.

76

'Makt og heiður, málma meiður,
mjer hafi þjer að þakka;
ættuð víst yfir vorum sízt
vanda nokkrum hlakka.

77

'Þínar systur, þegninn bistur,
þó mig lítið varði,
hefi eg fætt, svo hvorgi er hætt,
heima á mínum garði.'

78

Mælti dyggur milding hryggur,
málið tekur að hvessa:
'Líttu hjer hver launin mjer
þú leggur í staðinn þessa.

79

'Þín mun sál fyrir þvílíkt tál
þunga mestan hljóta,
eymd og sorg í yndis borg
en aldri náða njóta.

80

'Meistari þinn með málin svinn
mundi aldri veita
þjer það lið, þú þeingil við
þanninn skyldir breyta.

81

'Aðra ment hefr öðling kent
eyði Fofnis síkja;
hygg eg víst það hæfi sízt
herra sinn að svíkja.

82

'Frægur var og fremdir bar,
Fróða gæddur sáðum;
betri er deyð og berlig neyð,
en brjóta af góðum ráðum.

83

'Hans mun sál fyrir trygðar tál
títt á efsta dómi
klaga þig, en kvitta sig,
kóngs fyrir dýrum rómi.'

84

Gramson biður, og glúpnar viður;
getið er slíkra rauna:
'Gef mjer líf við geira kíf
góðu skal eg þjer launa.

85

'Okkar orð og ásett morð
aldri skal eg glósa
fyrir neinum hal í hilmirs sal,
þó hafi eg lífi að hrósa.

86

'Aldri af mjer skal örfa grjer
orðið stygðar heyra,
straff á mót eður stirðlig hót,
ef sturlar oss ekki meira.'

87

Döglings neyð sór dýran eið
dreifi linna sessu;
'Fái eg grið með fróman sið,
frjáls skaltú af þessu.'

---

88

Sízt er greið um Sónar leið
sigling dælu hrafna,
því mun bezt með Boðnar lest
bera sig heim til hafna.

89

Fellur voð á fræða gnoð
Fals í hyggju landi;
Berlings knör við bragða vör
bezt mun fara þó standi.

## IV

## [FJÓRÐA RÍMA]

1

Skeiðin beið þar skröfuðu menn
um skæðan *nauða starfa; *p. 226.
nýtum ýta nú skal enn
nausta lestum karfa.

2

Boðnar soðnar lögurinn lítt,
lest eg fast í sinni;
brúðum prúðum bera skal nýtt
bland af hendi minni.

3

Feldi og seldi eg Fjölnis vín
um frakkan hrekkja dóla;
bagan og sagan byrjast mín
af brodda hræddum sjóla.

---

4

Halur í salnum heima sterkur
heyrði orðin tyggja;
vildi gildur vísir merkur
veldis haldið þiggja.

5

Hægði og lægði Herjans kundur
harka sterkan skóla;
fjell að velli fors og undur;
fræðum hlýðir sjóla.

6

Heitir veita hilmir grið
halur með vjela galla;
eiðinn greiðir öðlings nið
orku sterkan valla.

7

'Ef forðast orð og frábært kall
Fofnis drafna hreytir,
líf við kífa laufa pall
lukkan þekkum veitir.

8

'Mig lystir fyrst um litla stund
láta þrætu standa,
bróður góðum birta af fund;
brátt mun ljetta vanda.'

9

Mælti dælt við málma bör
meiðir rjóður sverða:
'Þú skal nú, meðan þreyti eg för,
þýður og hljóður verða.

10

'Sjálfur álfur sverða skal
með sjóla mæla hinn únga.'
Milding vildi mýkja tal
mest um kosti þúnga.

11

Sverða herðir svaraði brátt
svika ríkum dóla:
'þegninn gegni, þeygi mátt
þrautar leita sjóla.

12

'Mín til þín er mjúkust bón,
mætur spjóta beitir,
forðast morð og falskligt tjón
við Fróða sáða veitir.

13

'Sómir frómum seggjum sízt
sára færið leggja;
útan sútar vildi eg víst
víkja af leiki beggja.

14

'Frægð og hægðir fær þú sízt
af fanga dreingjum slíkum;
þjer sem mjer ef þetta lízt,
þyrm þú harma ríkum.'



15

Veill óheill að vomurinn hjer
  vísi ansar sveita:
'Annað kann eg ei ansvar þjer
  enn að sinni veita.

16

'Fróður góður frændi minn,
  fastra lestir gerða,
kefja og hefja kóngdóm þinn
  kveð eg hann ráða verða.

17

'Tali halurinn traustur við
  týni frænings láða,
seggir leggja sætt og frið,
  sætra njóta náða.'

18

Mælti dælt við manninn þá
  morðarinn verði minni:
'Vakt og akt gef vísir á,
  so veri hann kyr hjer inni.

19

'Verður sverða vænum rjóð
  víst að beztu líka,
við skæðan ræða randa bjóð,
  Rögnis megnra bríka.'

20

Flasar og vasar fólinn út,
  fast og læsti ranni;
*lítið slítur lofðung sút, *p. 227.
  luktur mektar banni.

21

Spurði smurður stillir fróns
  spakan vökudóla:
'Viltu stiltur veitir sóns
  vjelum tæla sjóla?

22

'Áttu dátt við dreyra foss
  dauða greiða færi?
hátt um mátt að myrða oss,
  mundu vandann, kæri.

23

Svaraði harður sæmdar þegn,
  er sinna kunni rjettu:
'Nauðugan trauðan, niflung gegn,
  mig nauða bræður settu.'

24

Sór við ljóra sikling hræddur
  sínum vænum munni,
rjett og sljett með falsi fræddur,
  sem fólinn mæla kunni.

25

Get eg að hjeti gramson trúr
  gluggum veggja aldri
skúfa eður rjúfa skuggum úr
  í skæðu nauða hjaldri.

26

Beiddi reiddur bjarga sjer
  bljúgan þegn af mæði,
hendi benda hið bjarta gler,
  braut svo líta næði.

27

Sára fára sendir lax
  síðan náði veita
bón á fróni buðlung strax
  bundinn unda sveita.

28

Drottinn hrotta deyfði kíf,
  dignar megnið næsta;
manninn þann við málma dríf
  mýkti spektin hæsta.

29

Barmar armir brugga ljót
  bæði ráð og finna;
maðurinn glaður minnst vill mót
  mildings valdi vinna.

30

Hæstur glæstur himna ranns
  hugði að brögðum herra,
hrærði og nærði hjartað hans
  að hindra vondan hnerra.

31

Víkur að ríkum virðum þeim
  er vænum þjóna tyggja;
hersar þessir geðs um geim
  góða fæðu þiggja.

32

Enda kendir máltíð mest,
  mjöðurinn gleður rekka;
greifinn hreifi að görpum sezt,
  gjörir svo hver að drekka.

33
Gaurinn aura getið er enn
gæða ráðin leggi,
að glópur einn hrópi grams á menn
glöggt, svo blekkti seggi.

34
Undrast lundar orma skers,
einginn kóng nam líta;
frjetta rjett að foringja hers
og ferðum hirði ríta.

35
Án stans nam ansa lyddan leið
lognu þegnum máli:
'Burt með kurt sá bragning reið
björtu firtur stáli.'

36
Þykti, hnykkti, þegnum við;
þröng varð dreingjum kvíðan;
þegar til vegar vísirs lið
vildi halda síðan.

37
Manninn þann sem plagaði port
prúðir náðu frjetta:
'Um skeiðið reið hvort skjöldung fort?
skýrðu orðum þetta.'

38
Innir svinnum soddan tal
svífur hjörfa blekki:
'Hygg eg dyggvan herra í sal
hjer, en farinn ekki.

39

*Heyrði reyrður hatri og sút, *p. 228.
hóf so greifinn máli:
'Portarann skortir lukku lút;
þú lýgur, feigur gáli.'

40

Sveif í greifans sinnu ker
súta hitinn varmi:
'Lygin og smygin lyddan er;
laugstu flest, hinn armi.

41

'Riðinn í friði ræsir er,
ræð eg yður með sanni;
þó skal prófa þetta hjer
þegar, og huga að ranni.'

42

Yfir hallar vallar háfan múr
hleypir snápa líki,
bróðir stóð þar brigðu-trúr
og Bölvers halurinn ríki.

43

Frjettir rjett hvort fylkir sje
falinn í heljar pínum,
ljósar glósur ljet í tje
fyrir leiðum bróður sínum.

44

Aptur skaptur að virðum veik
(vill svo spjalla ríma),
hneigir og seigir kominn á kreik
kóng fyrir löngum tíma.

45

Á bak við þak hjá borgar múr
blíður reið frá meingi;
aumur raumur ekki trúr
alla villir dreingi.

46

Búast, snúast brátt á reið,
bragnings þegnar snjallir;
ríða fríðir fram á leið
fákum bleikum allir.

47

Stefndu nefndir strax á leið
stofunni jöfurs nærri,
þar áður á láði ræsir reið
og rekka flokkurinn færri.

48

Fanginn spanga spillir var,
spjes í húsi gisti;
fríðir ríða fram hjá þar,
fjell sú heill af Kristi.

49

Ríman stímuð reikar aptur
að ríkum svika dóla,
aulinn staulast illa skaptur
enn að finna sjóla.

50

Alexand vandar virðing lítt,
vesnar rausn og greiði;
brýn ófrýnar bárust sítt,
bólgin ylgjar reiði.

51

'Dauðann rauðan dæmdi þjer
dýr minn kæri barmi;
þú skalt nú, ef lukkan ljer,
lægður verða, hinn armi.'

52

Þrífur og rífur þokka rýr
þilju heljar nóti
í brjóstið ljóst, en buðlung snýr
bistur fast á móti.

53

Halurinn galinn hugði reiður
hendur að binda á tyggja:
'Þinn um sinn skal þrotinn heiður
þverður á jörðu liggja.'

54

'Feigur, deigur, falla í hlje
fyrr eg kjör af hörðu,
en bundinn undinn böndum sje
sem bölvuð fól á jörðu.

55

'Eg fæddist, klæddist, frjáls með frið,
fjekk það lukkan káta;
vil eg svo skilja veröldu við
veikur í líkan máta.'

56

Ruskast, tuskast, rekkar fast;
ræður síðan binda
sjóla, en fóla sverðið hvast
svipull greip af linda.

57

Ekki fjekk hinn bisti bör
  bundið sendi sjóða;
klórar nóri í kóngsins vör,
  kveður hann síður hljóða.

58

Jókst og tókst þar styrjöld stríð,
  sterklegt hark í húsi;
vörðust, börðust vel um hríð;
  veittist *máttar kúsi. *p. 229.

---

59

Sögur og bögur Sónar víns
  sízt er best að næra;
endir lendi óðar míns;
  ágæt njóti kæra.

60

Hirði stirðan brúðir brag
  brátt, og ljetti hætti,
virði dyrðar Sónar sag
  sótt og reitt af mætti.

V

FIMTA SKOTSKA

I

Má eg ei veizlu Viðris blands
virðum bjóða nú til sanns,
því mjer er horfin Hárs á braut
horna dröfn úr hyggju laut.

2

Óma týndust iðju laun;
er mjer opt að slíku raun;
rósar flóð og Rögnis vín,
rann það aldri inn til mín.

3

Dauf þó lægi dregg á hall,
og dreifðist lítt um Sónar pall,
ber eg það ei fyrir blíða þjóð,
burgeis-lýð eða yngis-fljóð.

4

Kerling mörg í kotinu er,
kvæðin nytjar misjöfn sjer;
sú má eignast Sónar tal
sæta, er ekki á betra val.

5

Mun eg þó verða mansöngs spil
mætri færa hringa Bil,
af gömlum dæmum gullas Ná
gott og ljett að læra má.

6

Akab átti illa frú;
öngvum var hún dygg nje trú;
fögur á lit en fölsk í lund;
flestir hötuðu menja grund.

7

Mann sinn egndi mest til sanns
móti Guði og þjónum hans;
saklausa nam svíkja fól,
sökuðum veitti hlífð og skjól.

8

Hataði alla hrundin sú
er hreina geymdu Guði trú;
fals-spámönnum fljóðið ann,
á fróma lagði hatur og bann.

9

Hennar vondsku vísir galt;
varð því báðum hjólið valt;
hestar drápu hilmirs fljóð,
en hundar sleiktu kóngsins blóð.

10

Þanninn olli þorngrund verst
þeingils falli og auðnu brest;
sáran dauða sjálf hún hlaut,
síns stórlyndis illa naut.

11

Akabs hús varð eyðilagt
alla misti heimsins frakt;
sjötíu voru synir hans
sverði drepnir innan lands.

12

Drottning þessi, djörf á skamm,
deyða hugði Elíam;
frelsti herrann fróman þjón;
fálan sjálf fjekk andartjón.

13

Vara eg hvörja valda snót,
vondslig forðast dæmin ljót;
spekt og mildi spenni að sjer
sprakkinn hvör sem lánið ber.

14

Mýki og græði mannsins brest;
mun þar rísa af gæfan mest;
elski frygð og fróma dygð;
fer það lof um heimsins bygð.

15

Köld eru stundum kvenna ráð;
karlmenn fá þess ekki gáð;
höldar verða í huganum brendir,
hugsa lítt hvar síðar lendir.

16

Einginn skyldi auka mein
ágætum Guðs orða svein,
*heldur prísi hjörfa álfur *p. 230.
hvörn sem drottinn elskar sjálfur.

17

Keppstu aldri að kefja þann
sem Kristur sjálfur æru ann;
brjóztu ekki broddi á mót;
bræði Guðs er stundum fljót.

18

Hyllin Guðs og hamingjan hrein
hjálpar þeim í hvorri grein,
sem drottins að sjer dýrðin tók;
dæmin les í helgri bók.

19

Varastu þessi vondslig hót
vilja Guðs að stríða á mót;
aptur kallar hann ei sitt ráð,
en þú fellur í spott og háð.

20

Eptirdæmin orða frjáls
allmörg finnast þessa máls;
drottinn lækkar drambsamt geð,
dýrð þó verði um stundir ljeð.

21

Mest það skaðar menn og sprund
meðan þeir hafa dýran mund;
forsið vex með firðum þá;
fellur sálin drottni frá.

22

Í hófi er bezt, þó hafi seim,
höldar brúki þennan heim;
víst í dag hann virðist rauður,
vera kann á morgun dauður.

23

Annars að kefja lukku lán
lítil þykir stoltum smán;
öfund bæði og ágirnd ljót
er til þess hin versta rót.

24

Hugsað hef eg í hjarta mjer,
heims fólk þegar að hreykir sjer,
rambar opt af ríkri mekt,
raunar fær sig ekki þekkt.

25

Drussi er það, sem dregur í vænd
að dreingjum sje það nokkur sæmd
að festa á kroppinn flúr og skart,
en fölvan níða sálar part.

26

Innri maður sje æru skrýddur,
elsku, dygð og sóma prýddur;
þótt gull á búki glói mart,
guðræknin er besta skart.

27

Hvar vill lenda halur og sprund
þá herrans koma á efsta fund;
ef taptur er allur trúar fans,
traustið hverfur syndugs manns.

28

Góð verk ekki gilda þá,
sem girntist þú af hrósun fá;
í leyni hvað þín lundin bar,
launa vill þjer drottinn þar.

29

Einfaldur í elsku og trú
ávalt sje því halur og frú;
þau munu verkin virðast best;
vjel og lygar skarta verst.

30

Hreinhjartaðir herrann sjá;
hinir verða að falla frá,
er með sjer færa marga í synd;
mjög er þeirra sálin blind.

31

Einn þó rasi yfir ráðið framm,
raunar er það nóglig skamm;
ef fávísa sjer flekar meður,
firna stór þann gjöldin skeður.

32
Hvör sem girnast himna vist,
hegði sjer með æru og list,
dæmin gefi dróttum góð,
drífi á burtu lygar *og móð. *p. 231.

33
Hinn sem lyktar lífið sitt
lastvar svo fyrir utan kvitt,
kóngur verður og klerkur sá
í keisara veldi drottni hjá.

34
Óska eg mjer og öllum lýð
sem elska drottinn fyrr og síð,
þeir hreppi frið og fögnuð þann
er faðir á himnum veita kann.

35
Enda eg þanninn mansöngs mál,
mína blessi drottinn sál;
Óma vín eg efna vil,
aptur víkja sögunnar til.

---

36
Raddar streingur Rögnis hvarf,
þar rekkar höfðu ærið starf;
fylkir átti að forðast hel;
falsara þótti leikið vel.

37
Þá stillir móður stáls við kund
stimpast hafði langa stund,
út að glugga opnum þar
Alexand dró sá hlífar skar.

38

Lítur út með lukku traust;
lofðung kallar hárri raust:
'Menn þeir vilja myrða oss hjer;
mætir bræður, hjálpið mjer!'

39

Samstundis kom siklings lið
og sjálfur greifinn út um hlið;
þeir heyrðu gjörvöll hilmirs orð,
að honum var búið þrauta morð.

40

Þegar að heyrðu harma sút
herra síns í garðinn út,
inn um portið allir senn
aptur sneru kóngsins menn.

41

Falskur greifinn fregnar þar
fyrða, og ljet sem vissi ei par;
'Hvað er nú um,' kvað hetjan snjöll;
heyrða eg eingin hróp nje köll.'

42

Hertugi og greifi, herrar tveir,
með hilmir voru báðir þeir;
hugðu að finna hallar dyr,
þar höldar gengu inn áður fyrr.

43

Dyrnar voru á dýrum sal
dreingdar svo sem herma skal;
stór var lás, en sterkur múr
stökkur eigi við hjörfa skúr.

44
Í leyni hafði loddarinn dyr
látið opna skömmu fyrr;
teikn var þetta trygðalaust,
trylltur greifinn um þær skauzt.

45
Vegna þessa víga morðs,
þó virðum þætti ilt til orðs,
opnaðar voru, en aldri fyrr;
allur lýðurinn þetta spyrr.

46
Til sjóla víkur sagan um stund;
svikulan keyrði auðar lund
niður, og beygði hausinn hart;
hinn fjekk varla leikið mart.

47
Ekki hafði aulinn dyr
aptur lukt sem áður fyrr;
það nam firra þeingil sút
þegar og hrindir Alexand út.

48
Bófinn hjelt á benja vönd
bistur í sinni hægri hönd;
ekki náði niflung fár
Norðra hyr, þó væri knár.

49
Aflið skorti illan mann;
öðling *við þann dáðir vann; *p. 232.
hinn stóð maður af harmi rauður
í húsi þar, sem væri dauður.

50

Kvintir hlupu kóngsins menn
kringum garðinn allir senn;
öngvar fundu opnar dyr,
er því von að vaxi styr.

51

Loksins fundu lítið rann;
lofðung gekk upp salinn þann:
*Ramsaí* hjet riddari sá,
rataði fyrstur ganginn á.

52

Sinti lítt um sveina skupp,
seggurinn hljóp í salinn upp,
hitti dólg og dögling fyrr;
dreingurinn stóð þá varla kyrr.

53

Ei þarf leingi ljóða um það;
lofðungs þegn tók unda nað;
þrisvar lagði þrjót í gegn;
þusti úr benjum unda regn.

54

Dögling þreif í fálka fjall
falsara þeim, er undin svall;
út af húsi ofan í garð
Alexand hratt, sá frægri varð.

55

Vígamaðurinn vafinn í þraut
veik þá strax af húsi í braut,
furðu hræddur að forða sjer;
fleira hlýtur að segja hjer.

56

Golnis víkur góma torg
að greifa þeim sem stýrir borg;
í garði niður gaurinn stóð,
grams ljezt ekki heyra hljóð.

57

*Tómas Eskinn* Týrs við spjall,
tyggja þegar að heyrði kall,
þreif til greifa þeygi laust;
þeingils afl er nógu traust.

58

Kasta náði kænn til bragðs
kyndugum þar til jarðar strax;
Grjes að foldu greifinn laut;
garpurinn sinnar hreysti naut.

59

Linda kníft lofðungs þegn
leggja hugði greifa gegn;
ekki mátti Ullur brands
efla það fyrir múga manns.

60

Þá sveinar greifans sáu það,
hvað siklings hafðist riddarinn að,
höndum gripu herra sinn;
hann hljóp þegar í garðinn inn.

61

Ramsaí hjá ræsir stóð,
og ræður að kalla kóngs á þjóð;
*Hus* hinn frægi heyrði það,
og herra Tómas þegar í stað.

62

Forðast lítið falskan bupp;
firðar runnu í salinn upp;
kappar fundu kauðann þar,
kominn að dauða næsta var.

63

Útaf drápu illan þjón;
andar beið hann sárligt tjón;
mæla orðum morðarinn þeim
mundi, áður en fór af heim.

64

'Sannlega eg nú saklaus er
af svikunum þeim sem gjörðust hjer;
míns voru frænda fjandleg ráð;
furðu *seint er að því gáð.' *p. 233.

65

Eptir þetta unnið alt,
illur bjóst með hjartað kalt
greifinn þá, og garpar sex;
grimdin honum í brjósti vex.

66

Vopnast greifinn vanur við kíf,
og virðar hans í fleina dríf;
flösuðu upp í firða rann,
og fundu kóng með þriðja mann.

67

Rögnis elda rjóður sá,
reiðugligur og bistur að sjá,
bar í hendi benja kníf,
búinn að halda fleina dríf.

68

Kallar hátt, þegar kónginn sá,
konstra fullur, og mælti þá:
'Láta skuluð nú lífið þjer
sem leiðir þorparar allir hjer.'

69

Sjóli bleif í salnum kyrr;
sýndur var honum dauðinn fyrr;
virðum þótti vaxa þraut,
þá vondan sáu þeir hjörfa Gaut.

70

Leita gjörði lofðung að
linda kníf og hjalta nað
bitrum þeim, sem bófinn smáður
borið hafði í rómu áður.

71

Sveinar báðu sæmdar manns
sjer að forða hjörfa dans;
kóngur sitji kyrr í sal,
meðan kappar rjóða unda fal.

72

Þegna sína þeingill mætur
þessu gjarnan ráða lætur;
vopnin tóku virðar þrír;
veik að salnum kóngurinn dýr.

73

Með ógna grimmum Ulli fals
átta voru sveinar tals;
þessum komu þrír í gegn;
þeim mun kostur að reyna megn.

